# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. ÁRG. WINNIPEG, FEBRÚAR 1902. NR. 12.


## Vegr krossins.

Sálmr eftir séra VALDEMAR BRIEM út af Matt. 16, 24—26.

(Lag: Góði Jesú, læknir lýða.)

1. Vilt þú fylgja frelsaranum?
Far þá hina sömu leið,
en þú mátt þó ekki hugsa,
að sú braut sé slétt og greið.
Krossins gata' er grýttr vegr,
gengr hann því margr tregr.
Dýrmætari' en heimsins hnoss
herra Jesú þíns er kross.

2. Viltu forða fjörvi þínu?
Far þú eins og Jesús þá;
legg í sölur líf þitt eigið,
lífi sönnu' ef viltu ná.
Líf ef kýs þú, hel þú hlýtr;
hel ef kýs þú, lífs þú nýtr.
Dýrmætari' en heimsins hnoss
herra Jesú þíns er kross.

3. Vilt þú eignast gull og gleði?
Gæt þess, slíkt sé ekki tál.

Þótt þú eignist allan heiminn,
ei er gagn, ef tapast sál.
Fyrir það ei sálu seldu;
sannan auð og gleði veldu.
Dýrmætari' en heimsins hnoss
herra Jesú þíns er kross.

## Klettr aldanna.

Drottinn Jesús, hinn krossfesti og upprisni, er mannkynsfrelsarinn og um leið konungr áranna og aldanna. Að því leyti, sem hann fær yfirráðin hér í heimi, blessast mannkynssagan. — Tíminn breytist. Allt er á fleygiferð. Kynslóðir hníga og hverfa, og aðrar nýjar koma fram á sjónarsviðinu. Mennirnir eldast mjög fljótt. Og margir, jafnvel flestir, eru hnignir til moldar áðr en ellin kemr. Ljósin jarðnesku blikna. Blómin jarðnesku fölna og falla í duftið. Minnismörkin, sem mannshöndin hefir reist upp hér á jörðinni, hversu mikilfengleg, glæsileg og ramgjör sem þau eru, fyrnast, molna upp, falla í rústir og eyðast. Ríkin jarðnesku kollvarpast. Einnig stórvirkin andlegu, sem liggja eftir spekingana mannlegu, missa með tímanum gildi sitt, — verða að þoka fyrir öðru nýju. Heimrinn brunar áfram, fjarlægist þau minnismörk, vex burt frá þeim. Móða tímans fellr yfir þau. Þau gleymast, hverfa inn í þokuna. Allt hið jarðneska er forgengilegleikanum háð. En Jesús Kristr er hinn sami í gær og í dag og að eilífu. Tíminn sópar öllu burt nema því, sem er í hans skjóli, nýtr verndar hans, þiggr blessan hans. Því að hann er frelsarinn — mannkynsfrelsarinn, einstaklingsfrelsarinn.

,,Hann er sá steinn, sem þér byggingarsmiðir einskis möttuð, en er nú orðinn að hyrningarsteini'' — segir Pétr postuli um Jesúm við hin kirkjulegu yfirvöld Gyðinga í Jerúsalem (Pg. 4, 11). Samkvæmt gamla testamentis spádómunum um Messías (Sálm. 118, 22 og Esaj. 28, 16) lýsir Jesús sjálfr yfir því, að hann sé slíkr steinn (Matt. 21, 42). Hann er sá steinn, sem öllum er óhætt að standa á og byggja á allt

líf sitt, vonir sínar, verk sín, bœnir sínar. Hyrningarsteinn kirkjunnar, undirstöðusteinn sannleikans og sáluhjálparinnar. Bjarg, sem stendr stöðugt í ölduróti tímans. Klettr aldanna. Eilíft bjarg.

,,Eg stend á þér, Jesús, mín hjálpræðishella,
—segir skáldið*)—
hæðandi' að óvinafylkingum þeim,
á mig sem herjuðu flatan að fella
og fjötraðan draga í kvalanna heim.
Ef þú mig fordœmir, hrekkvísa hjarta,
herrann er meiri, — sá upp reis af gröf;
skóf hann burt tölur míns skuldabréfs svarta
og skenkti mér kvittan að eilífri gjöf.''

Í 31. Davíðs sálmi koma fyrir þessi bœnarorð: ,,Vertu mér öruggt vígi, bjarg mér til frelsunar.'' Og í 26. kap. í spádómsbók Esajasar stendr þetta: ,,Treystu drottni æ og ætíð, því drottinn guð er eilíft bjarg.'' Hvorttveggja þetta þýðir gjörvöll kristnin réttilega upp á Jesúm. Út af þessum texta orkti Toplady sálminn *Rock of Ages* (,,Bjargið alda, borgin mín'' eða ,,Hellubjarg og borgin mín''), einhvern frægasta og dýrmætasta kristna sálminn, sem kveðinn hefir verið á enskri tungu.

Margt í líkingarmáli heilagrar ritningar ber það með sér, að lýðr drottins hinn útvaldi, sem tók við opinberaninni guðlegu bæði á gamla og nýja testamentis tíðinni, bjó í fjöllóttu landi. Meðal annars það, að drottinn er nefndr klettr eða bjarg. Allt slíkt líkingarmál minnir oss mjög eðlilega og oft með öllu ósjálfrátt á hið fjöllótta föðurland vort—Ísland. Ýms voði stendr þar eins og í öllum slíkum löndum í sambandi við fjalla-náttúruna. Meðal annars snjóflóðin og skriðuhlaupin. Það hvorttveggja er geigvænlegr náttúru-atburðr. Þegar snjór hleðst niðr hið efra í hinum snarbröttu fjallshlíðum dag eftir dag og viku eftir viku, þá verðr það snjómagn stundum svo mikið, að það getr ekki haldið sér kyrru, þolir ekki sinn eigin þunga, heldr hrapar niðr með ógurlegum hraða og hinu mesta eyðileggingarafli. Tekr sig oft upp í einu augnabliki, algjörlega óvæntu, efst upp í fjallsbrún og þeytist

*) Hjálmar Jónsson í ,,Vonarhlátr hins trúaða''.

áfram niðr allar brekkur nálega eins og fallbyssuskot, en æ þyngra og þyngra, víðtœkara og víðtœkara, eftir því, sem neðar dregr, og þar af leiðanda með sívaxanda hraða — þangað til komið er niðr á jafnsléttu. Og stundum fer flóðið enn langa leið eftir að þangað er komið, breiðir sig út yfir svo eða svo stórt svæði á undirlendinu. Á mjög líkan hátt myndast skriðuhlaupin — af of miklu vatns-samsafni í rigningatíð í hinum lausa jarðvegi fjallahlíðanna. Voða-aflið, sem náttúran býr yfir, birtist í mesta máta stórkostlegt við slík tœkifœri. Og tjónið, sem slíkar náttúru-byltingar valda, er einatt afar mikið, hryllilegt, grátlegt — landspjöll, eignamissir, manntjón. En hinsvegar kemr það og all-oft fyrir, að mannslífin, mannvirkin og eignir manna bjargast, frelsast, þá er svona lagaðr voði er á ferðinni, á dásamlegan hátt, eins og fyrir yfirnáttúrlegt kraftaverk. Frelsandi hönd drottins iðulega augsýnileg og áþreifanleg í slíkum eyðileggingar-áföllum. Flóðið eða hlaupið klofnar oft á miðri leið. Stefna þess breytist. Það rennr áfram í tveimr örmum úr því; og eftir því, sem armarnir fara lengra, fjarlægjast þeir hvor annan og skilja þannig eftir á milli sín svo eða svo stórt svæði ósnortið, óskemmt af byltingunni. Inni í voðanum, umkringt af dauðanum í þessari sérstöku mynd hans, er allt þar óhult.

Hvað var það, sem olli þessu frelsunar-kraftaverki? Hvað var það, sem klauf flóðið? — Einhver jarðföst, óbifanleg mishæð í fjallshlíðinni — bjarg, klettr. Tilsýndar bar, ef til vill, lítið eða ekkert á þeim kletti. Hann var lágr og lítill fyrirferðar. Hann stóð, ef til vill, naumast upp úr flóðinu. En hann var langtum sterkari og stóð miklu fastar í jörðinni en svo, að flóðaflið fengi þokað honum úr stað. Og af því að hann lét ekki undan varð hann til þess að brjóta strauminn, kljúfa flóðið, breyta stefnu þess, veikja afl þess, dreifa því, — framleiða kraftaverk líknar og frelsunar í dómsdags-eyðileggingunni miðri.

Slíkr klettr í syndaflóðssögu mannkynsins og í sorgaflóðssögu þess er Jesús Kristr.

Þér, hinir kristnu lesendr blaðs þessa! Hugsið um liðnu árin öll, sem þér munið eftir í æfisögu yðar, eða hafið heyrt

eða lesið um í mannkynssögunni þar á undan. Hugsið um mótlæti liðinnar tíðar, sorgir liðinnar tíðar, freistingar liðinnar tíðar, syndir liðinnar tíðar — í yðar æfisögu eða annarra kristinna manna.

Það kom allt þetta stundum, jafnvel oft, sem steypiflóð, kalt, heljarþungt, voðalegt snjóflóð og veltist yfir yðr eða aðra. Aðdragandi þess var, ef til vill, langr, þótt stundum væri ómögulegt að segja, hvað langr hann var. Upptökin voru einhversstaðar uppi í þokunni. En áðr en nokkurn varði sáuð þér mótlætið koma og stefna beint á yðr. Sorgin streymdi að yðr í hræðilegum flóðöldum. Þér kennduð sterkra freistinga, og það ekki að eins samfara mótlætinu, heldr líka, og það jafnvel enn þá fremr, í meðlætinu. Þær sóttu að yðr með heljarafli. Stundum veittuð þér þó freistingunum enga verulega eftirtekt fyrr en eftir á, þá er þér voruð orðnir syndfallnir menn og láguð flatir undir þunga yðar eigin syndar. Þetta er ekki að eins yðar reynd. Aðrir menn hafa reynt hið sama. Sumir meira. Sumir minna. Allir eitthvað. Það hafið þér heyrt. Það hafið þér lesið. Þér vitið það. En þér vitið meirá um það mál, eða getið vitað. Ef þér í sannleika eruð lærisveinar Jesú Krists, þá vitið þér, að allar þessar flóðöldur, sem streymt hafa inn í æfisögur yðar, hafa brotnað á honum. Fyrir trúna á hann, samlífið með honum, kom til yðar huggun í mótlætinu, gleði í sorginni, styrkr til að veita viðnám í freistingunum, guðleg fyrirgefning, þá er syndin — yðar eigin synd — lagðist yfir yðr hrellandi. Jesús klauf flóðið, sem stefndi á yðr. Þér hjálpuðust af úr voðanum fyrir þá sök, að hann tók við straumþunganum. Hann var bjargið í fjallshlíðinni, hjálpræðisklettrinn yðar. Á bak við hann stóðuð þér og fyrir þá sök var yðr borgið.

Ekki hafa allir persónulega reynt þetta. Því er nú verr. Margir eru vantrúaðir og margir eiga að eins dauða trú, sem kölluð er kristin, í eigu sinni. En þótt svo sé, þá eiga þeir þó líka kost á því að vita um þessa blessan, sem æfinlega er samfara sannkristinni trú. Öllum slíkum auðgefið að sannfœrast um það, að Jesús er slíkt frelsunarbjarg þeim öllum,

sem binda við hann ástfóstr og lifa í trúnni á hann. Það geta allir séð, að þetta allt í einstaklingslífinu og mannkynssögunni, sem hér á undan hefir verið líkt við snjóflóð, hefir brotnað á honum og er stöðugt að brotna á honum.

Mótlætið er minna í heiminum síðan hann kom hér til sögunnar en áðr. Mótlætið er minna í löndunum, sem fengið hafa yfir sig ljósbirtu kristindómsorðsins, en hinum,—miklu minna. En hitt er þó meira um vert í þessu sambandi, að sama mótlætið er eins og allt annað, þá er það kemr niðr á kristnum manni og þá er það kemr niðr á ókristnum manni, —manni, sem lifir í guði, og manni, sem lifir fyrir utan guð. Og vitanlega er það sitt hvað, að syrgja trúaðr og syrgja vantrúaðr,—að syrgja í Jesú nafni og syrgja fyrir utan nafn hans. Og myndi nokkuð nálgast það að vera eins sterk vörn gegn því að falla fyrir syndinni á tíma freistinganna eins og það að hugsa trúaðr til Jesú?—Ekkert.—Og hvar er fvllvissa um fyrirgefning syndanna, fullnœgjandi fyrir mannssálina iðrandi og samvizkuna ákærandi, fordœmandi — nema í trúnni á Jesúm Krist, krossfestan og frá dauðum upprisinn? — Hvergi.

Hann kom í fylling tímans í heim þennan, inn í mannkynssöguna, til þess að vera bjarg aldanna, hjálpræðishella syndugra manna, varnarklettr og ásteytingarsteinn til þess að taka á móti öllum hinum œgilegu flóðöldum mannlegs lífs. Yfir honum nýfœddum sést vofa œgilegt mótlætisflóð og syndaflóð. Það kemr ofan af efsta fjalltindi í þjóðlífi landsins helga. Heródes konungr sendir út þjóna sína til að deyða hann — ungbarnið. En þau Jósef og María eru eftir guðlegri bending flúin burt með hann áðr. Það flóð snertir hann ekki. Það var teikn þess, að hann myndi kljúfa strauminn síðar meir. Enginn hefir verið annar eins mótlætismaðr. Með mesta heljarþunga sínum dundi mótlætið yfir hann. Syndir vorar bar hann — gjörvalla mannkynssyndina. Og ekki að gleyma freistingarsögunni hans. Þvílíkt stríð! Þvílík stórstraumsflóð myrkra-aflanna, sem yfir hann gengu vor vegna! En hann vann sigr, dýrðlegan sigr. Bjarg aldanna bifaðist ekki.

Öllum skal borgið í ókominni tíð — um tíma og eilífð—,

ef þeir taka sér stöðu á bak við þetta bjarg. Og þeir skulu ekki að eins sjálfir bjargast þar af, heldr skal lífsstarfinu þeirra einnig vera borgið. ,,Sælir eru hinir framliðnu, þeir, sem í drottni eru dánir; — — þeirra verk fylgja þeim" (Op. 14, 13). Í mesta máta raunalegt er að hugsa um það, að allt, sem sá eða sá maðrinn er að vinna að og berjast fyrir á hinni jarðnesku æfi hans hér, skuli geta misheppnazt og orðið að engu. En til þess þarf ekki að koma. Einskis manns æfistarf þarf að lenda í flóði eyðileggingarinnar. Verkunum öllum, sem hér í tímanum eru unnin í skjóli eilífðarbjargsins Jesú Krists, skal ávallt borgið, og þau skulu fylgja mönnum inn í dýrðarríki guðs á himnum.

## Hvað vitum vér um faraó þann, er gjörði Ísraelsmenn að þrælum?

Eftir A. H. Sayce, doktor og prófessor.

Þýtt úr *Sunday School Times* af ritst. ,,Sam."

---

(Framhald og niðrlag.)

Loks varð endir á hinni löngu styrjöld með sáttmála, sem konungr Egypta og konungr Hetíta gjörðu sín á milli. Kanaan og landið þar út frá fyrir austan Jórdan var á friðsamlegan hátt eftir látið Egyptum, sem á líkan hátt settu sér fyrir að viðrkenna lögmæt yfirráð Hetíta yfir löndum þeim, er þeim lutu, og sleppa öllum kröfum til valda í Norðr-Sýrlandi. Það varð og samþykkt af hvorutveggja ríkinu, að flóttamenn, sem leitað höfðu sér hælis við hirðir Hetíta-konungs og faraós, skyldi mega hverfa aftr heim til sín án þess þeim væri neitt mein gjört, og enn fremr, að konungar þessir gjörðist bandamenn til þess að verja ríki þeirra gegn utan að komandi árásum óvina þeirra. Og sáttmáli þessi var innsiglaðr með því að dóttir Hetíta-konungs giftist Ramses.

Allt þetta gjörðist á tuttugasta og fyrsta stjórnarári faraós. Upp frá því virðist hann hafa lifað í friði. Að minnsta kosti er það líklegt, að herferðum hans til Súdan og Litlu Asíu, sem um er getið í minnismörkunum frá þeirri tíð, hafi verið lokið áðr en hann gjörði friðarsamninginn við

Hetíta-konung. Ramses fékk nú tíma til að gefa sig allan við stórvirkjagjörð í landi sínu, sem hann hafði svo ríka tilhneiging til. Hann ýmist endrreisti eða reisti að nýju musteri og borgir um þvert og endilangt Egyptaland.

Efnum þeim, sem á þurfti að halda til stórvirkja þessara, hafði hann safnað í hernaði sínum í Sýrlandi og Eþjópíu. Fjárhirzlur hans voru fullar af austrlenzkum auði, og miklum grúa hertekinna manna var haldið til vinnu við grjótsprenggingar og tígulsteinagjörð. En þrátt fyrir fjölda þeirra vinnumanna var verkið þó miklu meira en svo, að þeir fengi yfir það komizt. Þess gjörðist þörf að þrýsta fleiri mönnum til vinnunnar, og vafalaust þótti það frábær stjórnvizka af faraó, þegar honum hugsaðist það ráð, að gjöra Ísraelsmenn, íbúa Gósen-héraðsins, að þrælum sínum. Með því myndi það verða hindrað, að hin ískyggilega fólksfjölgan þeirra héldi áfram. Hin herskáa lund þeirra yrði með þessu móti brotin niðr. En hins vegar fengi faraó á þennan hátt alla þá verkamenn, sem hann þyrfti á að halda. Þrælarnir, sem unnu að húsgjörðum Ramsesar, voru ekki líklegir til samsæris með frændum sínum í Asíu í því skyni að steypa egypzka ríkinu eða gjöra því ónáðir.

Eitt af hinum mörgu fyrirtœkjum Ramsesar var endrreisn fornborgarinnar Sóan, sem nú er nefnd San, í Nílár-delta austanverðu. Hún hafði lengi legið í rústum. Stjórnendr átjándu konungaættarinnar höfðu látið Delta-héraðið — landeyjarnar egypzku — vera í vanhirðing. Þeir vildu heldr hafa aðsetr sitt á öllum tímum árs í Efra Egyptalandi. En Ramses gjörði Sóan að ríkisstjórnarsetri eins og forðum hafði verið. Hirðin sat þar nokkurn hluta af ári hverju, og bœir og kastalar voru reistir þar í nágrenninu. Eftir að faraó hafði náð eignarhaldi á Kanaan varð nauðsynlegt að hugsa vel um landamæri Egyptalands austan megin og þjóðveginn þaðan til Asíu. Fyrir þá sök var heilli röð af hervirkjum þar komið upp — í héraði því, er kennt var við Þúkót, eða Súkót, eins og staðrinn er nefndr í gamla testamentinu. Og enn fremr var vistaborg reist þar sem nú eru rústarhólarnir við Tel el-Maskúta, og skyldi þar varðveittar birgðir af matvöru og öðr-

um nauðsynjum handa hermönnum þeim og liðsforingjum, sem væntanlega yrði þar á ferð til og frá milli Egyptalands og hins egypzka skattlands í Asíu. Vistaborg þessi var helguð Túm, sólarlagsguðnum, og var því á trúmáli Egypta nefnd Pí-Túm — ,,hús Túms". Það er staðrinn Pítóm í 2. bók Mósesar, og hafa hin stóru forðabúr þeirrar borgar, sem öll voru af tígulseinum gjör, verið grafin úr jörðu af dr. Naville. Hann leiðir athygli manna að því, að sumt af tígulsteinunum í rústum stórhýsa þessara sé tilbúið með hálmstráum, en sumt ekki.

Rústarstöðvar Pítómsborgar eru að eins fáeinar mílur burt frá nýja bœnum Ismailia, fast við járnbrautina, sem þaðan liggr til Zagazig. Hvar hin vistaborgin — Ramses — hafi staðið, er enn ókunnugt, en skýrsla um þá borg er til á *papyrus*-blaði, og er þar lýst frjósemi akranna, sem þar voru umhverfis, fiskmergðinni í síkjunum, er þar voru grafin, svo og hátíðarbúningi þeim, sem bœjarbúar gengu í þann dag, er heilagr var haldinn til minningar um konunginn, sem reist hafði borgina — ,,Ra-messú Mí-Amon".

Ramses flýtti sér of mikið að koma upp stórhýsum sínum til þess að hann gæti ávallt nógu mikið vandað fráganginn á þeim. Mannvirki hans eru víða grófgjörð, íburðarmikil, glæsileg á að líta, en ,,svikin". Lítt hefir þess verið gætt, að velja gott grjót. Veggir úr hnöllungum hafa verið faldir undir gips-ábreiðu. Og auðsætt er, að húsgjörðarlistin egypzka hefir þá verið í aftrför frá því, sem var á dögum Setí konungs. Ramses hefir meir hugsað um að afkasta miklu en að láta það vera vel gjört, meir um það að innvinna sér frægð með mannvirkjum þessum en að vanda til þeirra. Þó eru greinilegar undantekningar frá þessu. Dyrasúlurnar í Karnak og Abúsimbel-hofið í Núbíu eru einhver tignarlegustu og göfugustu fornaldar-minnismörk þeirrar tegundar, sem til eru. Í Abúsimbel hefir fjall eitt verið úthöggið og gjört að musteri. Við musterisdyrnar eru fjögur risavaxin líkneski af mönnum. Þeir sitja allir í hásætum, og hvílir guðleg ró yfir andlitum þeirra.

En einnig þegar verið var að vinna að mannvirkjunum

miklu í Abúsimbel var Ramses fremr að hugsa um að gjöra sjálfan sig vegsamlegan en um dýrð guðanna. Eins og annarsstaðar hefir hann þar látið grafa sitt nafn á veggi og súlur; og í helgidóminum innst er það myndin af honum, sem sitr á stóli mitt á meðal hinnar egypzku guðaþrenningar. Ramses hlýtr að hafa verið einhver hégómagjarnasti einvaldsstjóri, sem nokkurn tíma hefir lifað, uppblásinn af hroka ofrveldis síns, í eigin augum sínum guð á jörðinni. Hann hlífði jafnvel ekki minnismörkum fyrirrennara sinna. Einnig þau urðu að stuðla að hégómadýrð hans. Nöfn þeirra, er þau höfðu reist, voru skafin út og hans nafn sett í staðinn. Allt varð að þoka fyrir yfirlæti hans og hégómaskap. Eins og Loðvík fjórtándi á Frakklandi var hann í sínum eigin augum ríkið, og sú var hin mesta tilhneiging hans að láta eftir sig nafn, sem aldrei gleymdist.

Ósk hans rættist. Hvar sem farið er um Egyptaland má sjá nafn Ramsesar annars meðal rústarleifa fornaldarinnar. Fornsagnir Grikkja gjöra mikið mál út af hinum volduga sigrvegara Sesostris, sem látið hafi mark eftir sig í öllum áttum hins menntaða heims. Það er Ramses annar, hinn alkunni faraó í sögu Ísraelsmanna, faðir prinzessunnar, sem tók Móses sér í sonar stað. Með honum byrjar saga hebresku þjóðarinnar. Líkami hans hefir varðveitzt allt til þessa með öllu óskemmdr. Hann birtist þar með nákvæmlega sömu andlitsdráttum sem hann hafði á því augnabliki, er hann andaðist. Meðal „múmíanna", hinna smurðu líka, sem geymdust í afkimum grafhvelfinganna í Der el-Baharí við Þebuborg, var lík Ramsesar. Og komi menn til Cairo og inn í hið egypzka fornleifasafn í þeim bœ, þá má þar sjá faraó þann, er hinni miklu kúgan beitti við Ísraelsmenn, og lesa lundareinkunn hans út úr andliti hans. Það er andlit háaldraðs manns, sem kominn var fast að tírœðu, þá er hann dó. Engu að síðr ber andlit hans það með sér, að hann allt fram í andlátið fann til þess, að lýðirnir lutu honum. Ennið er hátt, hárið ljósgult, nefið íbjúgt, varirnar fast saman klemmdar. Það skín út úr öllum pörtum andlitsins konunglegr vilji, strangt, miskunnarlaust harðstjóraeðli, og það ofrmagn eigingirni og yfirlætis,

sem að eins getr átt heima í sálu þess manns, er telr sjálfan sig guðdómlega persónu. Faraó þessi var persónugjörvingr þeirrar kenningar, að konungrinn geti ekki gjört neitt rangt.

## Kritíkin.

Í Nóvember-blaðinu af „Verði ljós!" er einskonar svar frá séra Jóni Helgasyni upp á „Kvittan" mína í „Sam." frá því í Ágúst síðastliðnum, svo og upp á það, sem eg minntist á hina „hærri kritík" hans í fyrirlestri þeim, er eg flutti á kirkjuþinginu á Gimli í sumar. — Hann segir þar meðal annars, að sú yfirlýsing mín sé góð og gleðileg, að eg hafi ekki þá bókstafstrú á biblíunni, sem ráðandi var hjá guðfræðingum seytjándu aldarinnar. En svo írafárast hann út af því, að eg skuli hafa getað fengið af mér að láta blað þetta athugasemdalaust flytja ritgjörð séra Björns B. Jónssonar, sem hann segir að öll byggist á þeirri guðfræðisskoðan, er eg telji „kreddu og oftrúaröfgar". Séra Björn hefir nú sjálfr í þeirri sömu ritgjörð með berum orðum tekið fram, að skilningr hans á guðlegum innblæstri heilagrar ritningar sé engan veginn sá sami sem almennt var ráðandi í kirkjunni á seytjándu öld. Skilningr hans á því máli er nákvæmlega eins og hjá guðfræðiskennurum og prestum í General Council. Því til sönnunar eru meðal annars yfirlýsingarnar frá þeim dr. Jacobs og dr. Weidner, sem séra Björn kom með í einum þætti ritgjörðar sinnar („Sam." XVI, 2), um það, hvað þeir hvor um sig kenni lærisveinum sínum í prestaskólunum í Philadelphia og Chicago um þetta trúaratriði. Þeir alveg eins og séra Björn neita því, að innblástr hinna helgu höfunda biblíunnar eigi að skiljast eins og tíðkaðist á seytjándu öld. Svo langt sem vit mitt nær aðhyllist eg skoðan þeirra í öllu verulegu. Og hefði þá verið eitthvað undarlegt, ef eg hefði gjört ritgjörð séra Björns ræka úr „Sam.", eða ef hún hefði að eins getað fengið þar inngöngu með svo eða svo miklum athugasemdum, sem miðuðu að því að gjöra grunsama skoðun þá á guðs orði, er þar er haldið fram. Séra Björn er þar ekki að eins að bera hönd fyrir höfuð sér gegn árásum séra Jóns Helgasonar á kirkju-

þingsfyrirlestr hans frá 1899, heldr er hann einnig að verja þá skoðan á guðs orði, sem mér vitanlega ávallt hefir ráðið hjá prestunum í kirkjufélagi voru, Vestr-Íslendinganna lútersku, frá því fyrst er það varð til. Svo sem við mátti búast hafa þeir af prestum vorum hér, sem út eru skrifaðir úr guðfrœðisskólum General Councils, allir undantekningarlaust, komið þaðan með skoðanir þeirra skóla og þeirrar kirkjudeildar á því máli. Og um leið og eg er þeim þar sammála þykist eg hafa gilda ástœðu til að líta svo á, að þetta sé yfir höfuð að tala ráðandi skoðan í íslenzka kirkjufélaginu hér. — Látum séra Jón Helgason hafa það fyrir satt, að skilningr vor og General Council-manna á guðlegum innblæstri ritningarinnar sé ramm-skakkr. Til þess hefir hann fullan rétt. En að hann berji það blákalt fram, eins og hann gjörir, að sá skilningr sé nákvæmlega hinn sami eins og hjá guðfrœðingunum gömlu á seytjándu öld — það má ekki þolast mótmælalaust. Missouri-synódan þýzka hér í Ameríku heldr enn fast við hina forn-lútersku innblástrkenning. Hver sá, sem nokkuð til muna þekkir til þess kirkjufélags, getr ímyndað sér, hvernig klerkum þar myndi lítast á, ef einhver í þeirra áheyrn fleygði þeirri staðhœfing fram, að General Council-menn og þeir væri þar sammála.

Í ,,Kvittan" minni benti eg á ýms ummæli séra Jóns Helgasonar í blaði hans um þá, sem öðrum augum líta á biblíuna og ,,kritíkina" en hann. Hann kallar það ,,sparðatínslu". Hann hefir áðr fundið það orð upp og leitt það inn í kirkjumálið á Íslandi. Það ber ekki vott um smekkvísi hans. Og óheppilegt er það fyrir hann að játa með þessu, þvert á móti vilja sínum, að hin tilfœrðu orð hans um andstœðinga sína verðskuldi ekkert veglegra nafn en þetta— ,,spörð".

*
* *

Akreyrarblaðið nýja ,,Norðrland", sem vinr vor hr. Einar Hjörleifsson stýrir, kemr með dálitla ritstjórnargrein um ritgjörðina í síðasta árgangi Tímarits Bókmenntafélagsins eftir séra Jón Helgason: ,,Hvernig er gamla testamentið orðið til?" Sú grein styðr málstað séra Jóns eindregið. Það er í

alla staði eðlilegt, ef menn muna eftir, hvaða afl það var, sem hleypti séra Jóni Helgasyni á stað til baráttu hans fyrir „kritíkinni". Greinarhöfundrinn gjörir sig sekan í sama ranglæti gegn oss eins og séra J. H., því ranglæti, að halda því fram, að vér séum oss þess meðvitandi, að það, er þeir kalla „niðrstöðu hinna vísindalegu rannsókna", sé óyggjandi sannleikr, og þó séum vér því máli andstœðir. Nei, vér höfum ekki fengið fullnœgjandi rök fyrir því, að þessir vísindamenn hafi í máli þessu fundið sannleikann. Vér lítum á niðrstöðu þeirra að eins sem getgátur, sumar býsna sennilegar, sumar mjög ósennilegar. Hr. E. H. furðar sig á því, að lang-flest blöðin íslenzku hafi þagað við biblíu-„kritík" þeirri, er séra J. H. hefir verið að berjast fyrir þessi síðustu ár. Hví þagði hann þá sem ritstjóri „Ísafoldar" við hinu merkilega riti eftir dr. Björn Ólsen um kristnitökuna á Íslandi, þegar það kom út í hitt hið fyrra? Það rit er þó einmitt samið samkvæmt meginreglum hinnar „hærri kritíkar". Og fyrir Íslendinga er margfalt hœgra að átta sig á „kritíkinni", sem þar er beitt, en á „kritíkinni", sem lærifeðr séra Jóns Helgasonar beita við gamla testamentið. Hr. E. H. vill víst leyfa oss að efast um það, að dr. Ólsen hafi með röksemdaleiðslu sinni—„hærri kritíkinni", sem hann beitir við íslenzku fornsögurnar—leitt í ljós fullkominn og óyggjanda sannleik. Því hann virðist leyfa sér það sjálfr. Hví vill hann þá ekki einnig leyfa oss að vera enn í vafa um það, að getgátur gamla testamentis „kritíkarinnar" sé fullkomlega sannaðar?

Búizt hefðum vér við því af hr. E. H., jafn-skýrum manni, að honum gæti skilizt rök þau, sem vér höfum fœrt fyrir því, að varlega þurfi að fara með nýmælin um bœkrnar í biblíunni, sem séra J. H. hefir tekið að sér að prédika inn í almenning þjóðar vorrar, þó að þau væri vísindalega sönnuð. Vissulega myndi hann skilja þau rök, ef hann í máli því, sem hér er um að rœða, væri eða hefði frá upphafi verið algjörlega óhlutdrœgr. Það er kærleikr kristinnar trúar, sem krefst þess af öllum, að þeir í svona löguðum málum fari varlega. Í næsta blaði „Norðrlands" á eftir því, er flytr ritstjórnargreinina um gamla testamentis ritgjörð séra Jóns, fer séra Mattías

Jokkumsson að láta til sín heyra um biblíuna. Hann kemr þar með niðrstöðu sinna ,,vísindalegu rannsókna" á ættartölum Jesú í guðspjöllum þeirra Matteusar og Lúkasar. Það er í mesta máta flysjungsleg grein, sem gengr guðlasti næst. Meðal annars er þar staðhœft, að til sé aðrar ,,stœrri og betri bœkr" en biblían, sem látnar sé ,,mygla á hillunni meðan rétttrúnaðar-fabríkurnar berja þessa einu bók inn í fólkið—rétt eins og guð hafi ekkert satt orð talað nema á milli hennar spjalda!"—Getr hinn háttvirti ritstjóri ,,Norðrlands" ekki heldr skilið, að annar eins vaðall geti verið neinni veiktrúaðri kristinni sál til hneykslunar? Líklega ekki. Að öðrum kosti hefði hann ekki innhýst þetta í blaði sínu. — Benda má og á þessa einkennilegu klausu í sömu grein: ,,Enginn þarf að efa, að *dellan* á móti séra J. H. muni enn um stund *narta* í hempulöf hans." Þvílíkt orðalag! Þvílíkt bull! Séra Mattías á sannarlega betra skilið af oss öllum vinum hans fyrir hinn fagra skáldskap sinn en það, að hann sé leiddr í freistni til að láta annan eins þvætting út úr sér opinberlega á prenti. Veit hr. E. H. það ekki, að séra M. er aldrei í sínu ,,essi" sem rithöfundr nema þegar hann yrkir ljóð, en allra sízt þó, þegar hann fer að rita um kirkju og kristindóm?

En hér sést einn ávöxtr af biblíu-kritíkinni á Íslandi.

*J. Bj.*



,,Hugleiðingar um aldamótin" er ritgjörð eftir dr. Þorvald Thóroddsen, sem birtist í ,,Andvara", tímariti Þjóðvinafélagsins, síðasta árgangi. Sú ritgjörð er samin til þess að sýna framfarirnar á Íslandi á 19. öldinni. Þar er meðal annars minnzt á fólksflutninginn frá Íslandi hingað til lands, sem höfundinum er mjög illa við. Hugsunargangrinn vill heldr en ekki ruglast í þeim parti ritgjörðarinnar, og sannleiksástin hverfr inn í þokuna. Hann segir: ,,Á Íslandi eru allir jafnir svo að segja og frelsi fyrir alla. Í öðrum löndum víðast hvar er ekki fullt frelsi fyrir aðra en þá, sem ríkir eru. Hinn afskaplegi auðr fárra manna og flest stórvirkin hafa verið keypt með ánauð og fátœkt þúsunda. Í þessari stóru hersveit, sem

ber hita og þunga dagsins, en þekkir fá gœði eða nautnir lífsins, lenda flestallir Íslendingar, sem til útlanda fara." — Um vestrfarana íslenzku segir dr. Þ. Th., að þeir ,,hrekist af örlögunum úr átthögum sínum, mállausir og *allslausir*, í ókunn fjarlæg lönd". Svo eftir allar framfarirnar, sem orðið hafa á Íslandi á síðustu mannsöldrum, koma þeir, sem þaðan leita hingað vestr, *allslausir*. Þetta er þá fyrir það fólk allt árangrinn af framförunum!—Enn fremr segir hann: ,,Eg hefi aldrei séð duglegan og hagsýnan mann á Íslandi, sem ekki hefir haft sœmilega afkomu." En hér í landi eins og í öllum öðrum löndum en Íslandi eiga ,,flestir" að ,,hanga á horriminni og komast aldrei úr kútnum".

Það ætti allir að fyrirverða sig fyrir að láta sjá annað eins rugl eftir sig á prenti.

Annars er eins og höfundrinn sé sér þess meðvitandi, að sökum framfaraskorts á Íslandi leiti fólk burt þaðan til þessa lands, þar sem miklu meira sé um framfarir. Því allt í einu fer hann að draga úr hamingju þeirri fyrir almenning, sem framfarirnar hafi í för með sér, segjandi: ,,Flestir hugsandi menn, sem nú um aldamótin hafa ritað um 19. öldina, láta í ljósi miklar efasemdir um það, hvort hinar miklu verklegu framfarir hafi í raun réttri flutt mannkyninu nokkra hamingju. Menn voru áðr alveg eins góðir og miklir menn og fullt eins ánœgðir með hlutskifti sittt án járnbrauta og rafmagnsljósa."

Hér er orðinn fáránlegr hringr í hugsan höfundarins. En hins vegar eru aðrar eins ritgjörðir og þessi háskalegustu útflutnings-agentarnir, sem komið geta til Íslands.



Á síðasta kirkjuþingi var ályktað, að allir reikningar kirkjufélagsins skyldi hér eftir verða yfirskoðaðir á áramótum. Samkvæmt þeirri ályktan er nú í þessu blaði ,,Sam." birt skýrsla um ástand skólasjóðs frá þeim mönnum, sem þingið fól yfirskoðan þeirra reikninga.

---

Til séra Jóns Bjarnasonar, Winnipeg,
forseta Hins ev. lút. kirkjufél. Íslendinga í Vestrheimi.

Háttvirti herra!—Við undirskrifaðir, sem á síðasta kirkjuþingi Hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi vorum

kosnir yfirskoðunarmenn á reikningum félagsins, höfum yfirskoðað skólasjóðs-reikningana fram að síðustu áramótum, og leyfum við okkr hér með að skýra frá, hvernig sjóðr sá stóð við árslokin síðustu:

Upphæð sjóðsins var alls $6,283.38.

| | |
|---|---|
| Af þessari upphæð voru úti í lánum, tryggðum með handskriftum (Promisory Notes).... | $3,138.13 |
| Í lánum, tryggðum með fasteigna-veði....... | 2,600.00 |
| Ógreiddir vextir af lánum um síðustu 6 mánuði | 109.11 |
| Ógreiddir vextir frá fyrri tímum ........... | 34.31 |
| Peningar í sjóði ...................... | 401.83 |
| Samtals............. | $6,283.38 |

Við álítum, að tryggingar fyrir öllum útlánum sé nœgilegar, og að féhirðir eigi miklar þakkir skilið af kirkjufélaginu fyrir það, hve vel honum hefir tekizt að ávaxta sjóðinn, auk þess sem bókfœrsla öll og reikningshald, sem að sjóðnum lýtr, er sérlega vel af hendi leyst.

Winnipeg, 14. Janúar 1902.

W. H. Paulson.
Þorst. Þórarinsson.

---

Þessar bœkr hafa nýlega verið gefnar bókasafni kirkjukirkjufélagsins: Almanak Ólafs S. Þorgeirssonar fyrir árið 1902, gefið af útgefanda; Guðspjalla-harmonía, Viðey 1838, gefin af Árna Jónssyni í Brandon; Viku-offr, Viðey 1837, gefið af Helga Ásbjarnarsyni í Mikley; enn fremr af sama: Biblíukjarni, Khöfn 1853, Sex föstuprédikanir Jóns Vídalíns, Kh. 1832, Bastholm's Höfuðlærdómar, Viðey 1832, og Flokkabók (Sigrljóð, Fœð.-, Krosssk.- og Hugv.-sálmar), Kh. 1834.



„Sameiningin" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.